huöria aller Prestar og Predikarar eiga epter skylldu þeirra Embættis trulega fyrer Folkenu og synum Tilheyrendum vt ad leggia og skyra/og optlega þa ad aminna til Bæna akallsins og Þackargiórdarennar. Þuiad med Bæna akallenu og þackargiórdenne lærum vier Best ad þeckia Gud/ad hann sie eirn almættugur/vijs/goodur og giæskurijkur Gud ꝛ Fader/sa ed oss vill vera vegna sijns Sonar nadugur/og Bænheyra oss/og veita og giefa oss alla gooda Hlute stundlega og eilijfa/og styra oss og huggan veita med sijnum heilaga Anda.

Chemnicius.

# Þarf Christen madurenn Gud ad akalla/ Eda ma hann giora sem hann vill?

Langt er þui fiærre/ad hañ meige giöra sem hñ vill/ Helldur er þad Guds Vilie og Skipan/ad þeir sem eru Guds Börn/þeir skule akalla/og tilbidia Gud þeirra Himneskan Födur/ ecke einu sinne edur tuisuar/ helldur jafnan og oaflatanlega/so sem ad skrifad stend: 1 Tess. 5.

Bidied

Bidied oaflatanlega/ og vered þacklat er j øllum Hlutum/ þuiad þad er Guds Vilie j Christo Jesu til ydar. Luc. 18. Stendur so/ ad Madur eige jafnann ad bidia/og þreytast ecke. Item: 1. Tim. 2. Eg aminne/ ad Menn vmfram alla hlute giøre Boner/Bæner/ Fyrerbeidslur Þackargiørder. Deut. 6. Þu skallt Gud Drottenn þinn tilbidia. Psalm. 50. Akalla mig j þijnum motgangs Tijma. Matth. 7. Bidied/ þa munu þier fa/ Leited/ þa munu þier finna. Og huørier hellst þeir eru/ sem ecke akalla Nafn Drottens/ þa reiknar Gud fyrer Heidingia/ huørier ad eru sniuirding fyrer hønum/yfer huøria hann vill hella sinne grimdar Reide/so sem skrifad er Psalm. 14. Drottenn akalla þeir ecke: Psalm. 79. Hellt þinne Reide vt yfer Kongarijkenn sem ecke akalla þitt Nafn. Jerem: 10. Hier huert a mote/ þa hefur su christeleg a Kirkia/ og Guds Heilager þetta audkienningar Merke a sier/ huar vm ad stendur 1 Corint. 1. Cap. Þeir ed akalla Nafned Drottens.

## Huad kallast/ Eda huad er þad ad bidia?

Ad Bidiast fyrer/ edur ad giöra Bæn til Guds/ er ecke ad hafa mörg Ord nie Munnflapur Söngua eda Lesninga sum huörke er af Hiarta Root nie Skynseme Marth. 6. Nær þier Bidied/ vered ecke fiölmælugier/ ꝛc. 1. Corinth. 14. Eg vil Bidia j Andanum/ og eg vil Bidia j Huzskotenu. Huiad vm soddan Bæna akall talar Gud Esa. 29. Matth. 15. Lydur þesse nalgast mig med Munne sijnum/ og heidrar mig med sijnum Vörū/ Enn Hiarta þeirra er langt fra mier. Helldur so/ Þegar Sælen Mañsins edr hans Hiarta/ vpphefur sig til Drottens. Geingur fram̄ fyrer Guds Nadarstol/ ꝛ akallar Gud med Sonarlegu lijtelæte og Hiartans Audmyk̄t/ truande vissule-ga ad Gud sie þar nalægur/ ꝛ heyre vo-rar Bæner/ og setium fram̄ fyrer hann vora aliggiande naudsyn epter hans Bifalningu og fyrerheite/ og Bidium hā so vm Nad og Myskun ꝛ Hialp/ j sañ-

re Tru

re Tru/ fyrer Christum/ j öllum þim̄ hlutum sem eru naudsynleger/ og nytsamleger/ ⁊ oss til Saluhialpar/ enn Gude til Lofs og Dyrdar/ Ebre. 5. Joha. 16. Ellegar þegar vier þackum Gude fyrer medtekna Velgiörninga/ og lofum ⁊ dyrkum Guds Nafn 1. Timoth. 2. 1. Corinth. 14.

Psal. 25. Mijn Augu lijta jafnan til Drottens/ Psal. 86. Daglega kalla eg til þijn/ epter þier forleinger mig. Psalm. 143: Eg vtbreide mijnar Hendur til þijn/ Mijna Sal þyster epter þier/ ⁊ ct. Hebre. 5. Þar fyrer latum oss þar ad ganga med hugarhreyste til Nadarstolsins/ so vier ödlunst Myskun.

## Er Bænen marghattud/ Edur med huörsu mörgu mote verdur hun?

Þad hefur S. Pall hid einfalldleg asta vtskyrt/ Phil. 4. 1. Timoth. 2. 1. Cor. 14. Eph. 5. Sem er/ Ad annad huört Bidium vier Gud ad giefa oss gooda Hlute/ og þa med oss ad auka/ styrkia/

kia/ efla/ Ellegar vier Bidium ad Gud vilie snipta af oss þui enu Illa/ ok vardveita oss fyrer þui/ og leysa oss þar j fra/ og ad hann styrke oss j Krosse og Mótgange/line ok mijke forþient Straff giefe oss þolenmæde og huggan/ Ellegar þad vier þóckum Gude fyrer medtekna Velgiórninga/ Ellegar þa vier lofũ og prijsum hans Almætte/ Dyrd/ Riettlæte/ Nad og Myskun/ Ellegar ad vier jatum ok vidurkiennum fyrer hónum vorar Synder/ og klógum vorar Eymder/ Daniel 9. Og soddan Bæner Packargiórder/ Lofgiórder/ ok klagaaner/ skie aũad huórt In Genere/ almennelega/ ellegar In Specie, einslega/ þegar Menn nefna og fraũ setia eitthuad þad þeir vm Bidia/ annad huórt sialfs sijns vegna/ eda annarra. Og þetta skiedur annad huórt/ þa huór eirn Bidur fyrer sialf uũ sier/ edur þa tueir edur þrijr eru til samans/ edur allur Kirkiusófnudurenn verdur samþyckr ad Bidia vm eitthuad/ ok giórer almeñelega Bæn sijna til Guds Matth. 18. Item· Soddan Bæner og Packargiórder þær skie annad huórt hid

innra

jnnra j Mannsins Hiarta og Hugskote/ med Anduarpan og Girnd Hugarins / edr til lijka / bæde hid jnnra + ytra / Pad er / med Hiartanu og Munnenum. Og hid ytra skiedur Bænen añad huórt med Sö ng eda Lesninge/ 1. Cor. 14. Eph. 5. Sómuleidis pa skiedur Bænen annad huórt med ytre hegdan Lijkamans/ Sim̃ er ad beygia sijn Knie Eph. 3. Ad vpp= lypta Höndonum 1. Tim. 2. Ad vpp= hefia Augun Psalm. 123. Beria sier a Briost Luc. 18. Ellegar pa kann ein ri= ett sönn Bæn ad skie fyrer vtan soddan ytre Hegdaner / j Anda og Sannleika / Joh. 4. Enn soddan ytre Hegdaner eru pui hafdar vid j Bæna akallenu/ ad Maduren kunne par med ad vppuekiast til ad bidia af Hiarta / + ad Menn mei= ge par af marka aluóru Bæna akallsins.

## Er pad pa eins/ huørnen og med huørium hætte Madur bidst fyrer?

Nei/ Puiad Heidingiar/ Hræsnarar/ peir bidia/ Enn peirra Bæner pocknast Gude ecke/ Matth. 6. S. Jacob seiger

Cap

Cap. 4. Þier bidied og faed ecke/ þui þier bidied jlla. Og ad sönnu seiger Da uid/ Psalm. 109. Verde hans Bæn ad Synd. Þar fyrer huör hann vill bidiast riettelega fyrer/ sa venie sig til þess/ ad hyxa vel + vandlega vm þad/ ad hegda so sinne Bæn / og koma so framm med hana/ad hun mætte Gude þocknast/og verda af hönum heyrd/Enn soddan er ecke faled nie folged j Ordafiölda/edur Lesningum/edur forkostulegre Mælsnilld + Mælsku/ Helldur skal huör Madur hegda so sinne Bæn/+ koma henne so j Lag so sem Gud hefur fyrersett og skipad j sijnu Orde. Enn þesse Bænahættur ma vel vegna einfalldra jnnelykiast og felast stuttlega j þessum Sex epterfylgiande Greinum.

1 Fyrst skal sa sem bidia vill vandalega þar vm hyxa/huörn Gud hañ vill akalla/so ad Hiartad/Sinned/Hugskoted verde vppuaked/ og snued til þess eina sanna lifanda Guds/sem er Fader/ Sonur og Heilagur Ande/ epter þui sem hann hefur sig sialfan og sinn Vilia j sijnu Orde kunñan giört + openberad.

2 Med þui vier viliu nu kalla þeñ an Gud ABBA/ Þad er vorn elskuleg-an Födur/ so sem þann nalægur er/ og vorar Bæner heyra vill/ Deut. 4. Psa. 145. Þa hyre huör og eirn þar til/ ad hañ med Hiartans aluöru/ med allre sid-seme og Sonarlegre Audmykt fram gan-ge/ og sijna Bæn frañ bere fyrer hans Auglit Psalm. 119. 143. Ebre. 5.

3 J þridia mata þa hlytur ein riett Bæn ad skie j sañre Jdran/ og af lifan-de trunadar trauste til Guds/ Þuiad jd-ranarlausa Syndara vill Gud ecke bæn-heyra/ Joh: 9. Og Esa. 1. Og þo þier Bidied margfallega/ þa vil eg þo ecke heyra ydur/ Þuiad ydar Hendur eru full-ar med Blod: Þar fyrer huör hann vill riettelega Bidia/ hann hlytur fyrer alla Hlute fram ad vera forþeinktr þar um huörnen hans efnum er vared/ Huört hñ dirfest med goodum Huga og fullu tru-nadar Trauste ad nefña Gud siñ Födur/. Og þetta er hid helsta j öllu Bæna a-kalle/ ad vier fyrst og fremst Bidiñ um Syndanna fyrergiefning/ og ad vier mæt-tum hafa Gud oss nadugan og liknsamã.

Christins

4 Christins Mans Bæn skal ecke vera Munnslapur nie Ordafiölde onytsamur. Helldur skal hañ bidia vm eitthuad Matth. 7. Og huxa vm ad þad sie epter Guds Vilia/ 1. Joh. 5: So ad hñ vite/ ad þad sie Guds Vilie + Bifalning ad vier skulum slijks af hönum bidia og vænta.

5 J fimta mæta/ þa ma Bænen ecke fram koma af nöckru Traustе vppa mak legleika eigenlegra goodra verka/ Helldur epter þad ad vier höfum aluarlega huxad vm / ad vier sieum aumer overdugier j Guds Auglite/ þa skal sa sem bidur audmiuklega nidur slæ sier/ + sijnar Bæner fram setia fyrer Gude/ treystande vppa hans Nad og Myskun/ og bidiande alleinasta j Nafne vors einka Medalgangara og Arnadar mans Jesu Christi Joh. 16. Dan. 9.

6 J siötta mæta þa hlytur truen ad höndla Guds Fyrerheit/ og taka þ stadfastlega til sijn/ j huöriu Fyrerheite Gud hann lofar og tilseiger oss/ ad hañ vilie vt af skiærre Nad + Myskun/ fyrer Christum/ æn allra vorra goodra verka og forþi-

forþienanar/ heyra vorar Bæner/ og vt af þessu ad fa þad trunadar traust til Guds/ ad hann mune fullkomlega Bæn heyra oss/annast oss/ * vorar Naudsyn iar alljta/ Ad hann kunne og vilie hialpa oss j öllu og til alls þess/sem er hns Nafne til Dyrdar/enn oss til Sæluhialpar Matth.21. Allt huad hellst þier bidied j Bænenne/ef þier trued/ þa skulu þier þad fa Jacob. 2. Hann bidie j trunne/ og efe ecke/ Þui huör han er efasamur/ sa þarf ecke ad hyxa/ ad hann mune ödlast nöckurn hlut af Drottne:

Vt af öllu þessu er liost og openbert huad þungt og torfellt þad er ad giöra riettelega sijna Bæn/* huad margar ocelianlegar Bæner þar mune skie alleinasta af Munnenum/ enn huörke j Anda nie Sannleika.

Vt af þessu er * eirnen þad auglioßt ad af vorum eigenlegum Kröptum og Mætte/ þa er oss ecke mögulegt riettelega ad bidia/ Helldur er þad so sem S. Pall seiger Gala. 4. Med þui þier erud Guds Börn/ þa hefur Gud sent Anda sijns Sonar j ydar Hiörtu/sa ed kallar

lär Abba/elskulege Fader. Og Zach. 12
Seiger Gud/Eg vil vthella Anda Na-
dar og Bænarennar.

Og þo so sie/ad vor Gudrækne til
Bæna akallsins/sie veyk ♱ lijtel/þa sku
lum vier þo samt ecke læta af Bænenñe/
Helldur bidia þess framar/ad Gud vil
le epter sijnn Fyrerheite giefa þeim Hei-
lagan Anda sem hann þar vm bidia
Luc. 11. Cap.

Slijk Bænrækne og ast til Bænan-
na/ hun vppkueikest/ med jduglegre vm
hyran gudlegs Ords/og med jdkan tru
arennar/ Og fyrer þessa Grein bydur
Christur/ad þegar vier vilium bidia/þa
skulum vier hafa Orden vid j Bænenne.
Luc. 2. Og S. Pall seiger Rom. 8.
Þegar vier ecke vitum huörs edur huör-
nen vier eigum ad bidia/þa bidur Ande
Guds fyrer oss/ med oseiganlegre and
uarpann.

## Huørs eigum vier þa Gud ad bidia?

Christur seiger hia Gudspiallamañ
enū Matth. 18. ♱ 21. Marc. 11. Joh.

16. Huörs hellst þier bidied Födurenn j mijnu Nafne/ med Trunne/ þad mun hā veita ydur. Þad vtleggur Johannes so 1 Joh. 5. Þad traust höfū vier til Guds ad ef vier bidium nöckurs/ epter hans Vilia/ þa mune hann bønheyra oss. Þui ad huad hellst Gud hefur bannad ꝛ hu- ad hans Vilia er a mote/ þar vm eigū vier ecke ad bidia. Enn huör og huilijk- ur ad Guds Vilie sie/ þad hefur Christ- ur openbert giört j þeirre Bøn sem hañ kiende Postulonum Matth. 6. Luc. 11. Og þad er komed j þessum höfudgrein um/ sem er/ Allt huad vier bidium/ þad ahrærer annad huørt Guds Dyrd/ edur vorar Naudsyniar og Saluhialp. Þad oss vid vijkur og vier höfum þörf ad bidia/ þad er annad huört Andlegt ed ur Lijkamlegt/ Og ahrærer Lijf eda Sal/ Gotz eda æru/ j þessu Lijfe edur o- komnu/ huørt helldur vier bidium fyrer oss sialfum/ edur ødrum/ heimuglega ed ur almennelega/ so sem þetta allt er jñe lukt ꝛ faled j vorre Drottenlegre Bøn

Fader

# FADER VOR.

## Eiga Menn þa ecke ad hafa onnur Ord j Bænene/ en þau sem ad standa j Fader vor?

Spamennerner/ sialfur Christur/ og Postularner/ þeir hafa j þeirra Bæna akalle talad önnur Ord. Þar fyrer þa erū vier ecke skulldbundner vid þau Ord Drottenlegrar Bænar/ helldur vid þa Meining/ sem þau Ord hafa jñe ad hall da/ ad vier epter þeirra skickan og vijsu hegdum vorum Bænum sem j Fadervor er fyrer skrifud.

Þar fyrer er radlegt og miög gagnlegt/ ad huad hellst vier viliū bidia/ ad þ sie jnnefaled j einhuörre eirne Bæn af þeim siö. Og ad Madur j Psalmum og huörium hellst ödrum Bænum giære vel ad/ til huörrar Bænar j Fader vor þad heyre sem hann þa ꝛ þa bidur vm. Huiad sa Bænahættr/ ꝛ su Forma Precationis sem Christur sialfur hefur tilsett/ a med riettu ad halldast/ sa hellste og agiætaste/ og skal vera ein Regula/ og Mæler til allra annara Bæna. Hui-

ad Christur hefur ecke forgiefins so talad/ Nær þier Bidied/ þa seiged so/ Fader vor/ ꝛ ct.

## Med huøriu þororde edur mismun eigum vier ad bidia/ vm Andlega og lijkamlega gooda Hlute?

Pad kienner oss Christur j Drottenlegre Bæn Fader vor/ Sem er/ Vier eigum ecke alleinasta ad Bidia vm tijmanlega og lijkamlega goda Hlute/ so sem oss liggie mest a þeim/ Helldur eigum vier ad Bidia bæde vm andlega og lijkamlega Hlute/ og þo med þeim hætte/ Ad vier fyrst leitum Guds rijkis og hans Riettlætis. Par næst skulum vier þad hugleida/ ad lijkamlega stundlega Hlute faum vier ecke fyrer vora atburde ꝛ kiænsku/ ei helldur af nockru Tilfelle/ helldur skulum vier alls þessa vænta af Gude/ og Bidia hann þar vm/ ꝛ þo med þeim hætte/ ad vier forum so med þessa stundlega Hlute/ ad þad verde Gude til Lofs og Dyrdar/ enn Naunganum til gagns og gooda.

Nu skulum vier vm andlega gooda Hlute bidia med fullu Trauste/ Forords laust/ Enn vm lijkamlega Hlute og þad allt sem ahrærer þetta stundlega Lijf/ skulum vier bidia med Fororde. Huiad med þui Gud hañ vill ad þeir sem hans eru/ þeir skule lijda Kross + Motgang/ + vier sialfer vitum ecke huad oss er gagnlegast til Sæluhialparennar/ Þar fyrer hefur Christur j Drottenlegre Bæn sett oss fyrer/ med huórin mote ad vier skulum bidia vm daglegt Braud/ Þad er/ vm stundlega og lijkamlega Hlute/ sem er med þessu fororde. 1. Fyrst/ Ef þad er Guds nadugur og myskunsam Vilie/ þar vier seigium so/ Verde þinn vilie. 2. J annan mæta/ Ef þad er oss gagnlegt og til Sæluhialpar/ þar vier so seigum/ Frelsa oss fra illu. 3. J þridia mæta/ ef þad þienar til Guds æru og Dyrdar/ þar vier seigum/ Þinn er Heidauren og Dyrden.

Þar fyrer skulum vier ecke j nóckurn mæta/ med vorre Bæn vm stũdlega Hlute/ setia Gude fyrer nóckurn skamt edur tijma/ helldur giefa oss vilianlega vnder hans Vilia/ og bioda oss til sonarleg-

rar Hlydne/eñ hönum synest annad enn þ
vier Bidium/ Þuiad so hefur Christur sia
lfur beded: Item/ Matth. 8. Herra ef
þu villt gietur þu hreinsad mig. Og j
soddan Bænum þa er samt Fyrerheit
Guds statt + sködugt/lijka eirnen trunad-
ar Traustied/ad Gud vilie oss bænheyra/
Sem er/Ad Gud hañ mun hyra til vor
j þessum lijkamlegum efnum/ og hafa
vmhyggiu fyrer oss/ med födurlegre ast
seme/og mune fullkomlega sia so til/ad
þad frañ kome vid oss/ sem hann veit
oss gagnlegast vera til vorrar Sæluhial
par. Þar fyrer hafa þeir gömlu fordũ/
j þra aliggiãde Naudsyniũ stuttlega/
þo miög agiætlega saman teked sijnar
Bæner y þennan mæta/ Vt Deus aut
liberet, aut mitiget, aut donata patien
tia & Consolatione saluet, Þad er/Ad
Gud añad huört leyse vr Kuolleñe/edr li
ne hana/ edr giefe Þolinmæde + Hugguñ.
Og Augustinus seiger: Deus etiam in
corporalibus semper exaudit, si non ad
nostram voluntatem, at certe secun-
dum suam Voluntatem, ad nostram Sa-
lutem. Jafnan bænheyrer Gud/ þa

þa vin ſtundlega Hlute er Beded/ Enn ef þad ſkiedur ecke epter vorum Vilia/ þa ſkiedur þad þo viſſulega epter hans vilia/ ſo oſſ verdur til gagns. Item/ In huius modi petitionibus, DEVS miſericorditer facit quando exaudit, & miſericorditer etiam facit quando non exaudit. J þuilijkum Bænum/ þa giörer Gud myſkunſamlega þegar hañ Bænheyrer/ Hann giörer og myſkunſamlega þegar hann Bænheyrer ecke:

Matth. 26. Fader/ ef þu villt/ lyd ecke af mier þeſſe Kaleikur/ Eñ ei ſem eg vil/ helldur ſem þu villt. 2. Reg. 15. Ef eg finn Nad fyrer Drottne/ þa latur hann mig koma aptur/ giöre hann vid mig ſem hönum beſt lijkar. Dan: 3. Drotten gietur frelſad oſſ af þijnum Höndum/ og þo hañ vilie ecke/ þa ſkalltu ſame vita ad vier heidrum ecke þijna Gude ⁊ c.

## Med þui ad vier erum treger

og later til ad bidia Gud/ Huoriar eru þa þær hellſtu Greiner ſem oſſ eiga vpuecka/ og drijna til Bæna akallſins?

Af þui ad vier erum ofmiög kalld-

er/

er/treger z later til Bæna akallſins/þa er bæde naudſynlegt og gagnlegt ad vita ſannar Greiner/og hafa þær hia ſier/ſo ad nær vier hurum um þær/og hugleidum þær vel/ad Heilagur Ande kyne þa ad vpuekia oſſ til Bæna akallſins.

1 I fyrſtu er þad Guds Vilie/ Bod og Skipan/ad vier ſkulum bidia. Þar fyrer huór hann giörer þad ecke/og huór hann forſomar Gud ad bidia og akalla/ſa ſame giörer ſtora Synd.

2 Vorar margfalldar Naudſyniar/ſem a oſſ hier j þeſſū auma Heime liggia/þuinga oſſ og pyna/huóriar vier þo kunnum ecke ſialfer ad ſkynia/nie helldur vakta oſſ fyrer þeim/ og ecke helldur frelſa oſſ fra þeim/allt þetta neyder oſſ med riettu til ad bidia Gud.

3 Gagn og nytſeme Bæna akallſins/og Auóxtur Bænarennar/a og eirnen ad vpuekia oſſ til ad bidia. Þuiad andlegar Gæfur Guds faum vier ecke/ nema þuiad eins vier bidium Gud þar um/ Stundlegar og lykamlegar Gæfur ſtoda oſſ ecke par til Sæluhialpar/nema þær

verde

verde fyrer christelega Bæn helgadar. So sem og lijka S. Jacob fleira talar vm Krapt Bænarennar.

Luc. 11. Ef þier sem vonder erud kunnid ad giefa goodar Giaffer ydrum Sonum/ Myklu framar mun þa Faderen ydar a Himnum giefa Heilagan Anda þeim sem hann þar vm bidia/ 1. Timoth. 4. Aull Guds Skiepna er good/og helgast fyrer Guds Ord og Bænena.

4 J fiorda mæta/skulum vier læta Guds agiæt Fyrerheit og Lofaner locka oss til Bæna akallsins/ad Gud Himnesk ur Fader/ hann elskar oss so harla miög j sijnum Syne Jesu Christo/ad hañ hefur Lyst + þocknan a þui/þegar vier kosmum fram fyrer hans Auglit med vorar Bæner/ og vill fullkomlega hneigia sijn Eyru til þeirra/ og heyra þær.

5 Þad skal oss + vpphuetia til Bænanna/Ad vor ærnadar Madur Jesus Christur/hann hefur þui lofad og heited ad hann vilie vera oss nalægur þegar vier bidium: Hann hefur so sem Tulkur + Medalgangare/ og ædste Kiennemadur vor/lofad ad bera vorar Bæner fram fyrer Föduren/og bidia hann med oss + fyrer oss.

Matth.

Matth. 18. Huar tueir eda þrijr eru saman komner j mijnu Nafne / þar er eg mitt a mille þeirra.

6 Sa Heilage Ande Guds / hann er af Fødurnum og Synenum til þess skick adur / ad vptendra og kueika med oss Bæna akalled / af huøriū Anda vier kyn̄num ad kalla vpp og segia ABBA / goде Fader Gal. 4. Huør Ande og Bidur fyrer oss / og framm̄e stendur fyrer Gude / med omælanlegre andvarpan / Rom. 8. Þar fyrer huør hellst sem er latur + forsomunarsamur ad Bidia + akalla Gud / sa same hrygger og styggер Heilagann Anda fra sier.

7 Christeleg Bæn hun er samfielag og samteinging allra Christi Lima og Utvaldra / þeirra sem Bidia og akalla eirn Gud + Fødur a Himnum. Þar fyrer / Huør hellst sem sier lætur leidast Gud ad til Bidia + akalla / hann skilur sig fra þui Høfdenu sem er Christur / og j fra Limum hans Lijkama / sem er Heilög Christne / Og Gud sialfur hellдur þenn an fyrer Heidinga / sem ecke akallar Guds Nafn / Jeremi: 10. Hell vt Reide þinne

þinne yfer Heidingiana sem ecke þeckia þig/ + yfer Rykuislernar sem ecke akalla þitt Nafn/ Psalm. 14. Drotten akalla þeir ecke.
8 Bæna akalled til Guds er su rietta jdkan Gudrækneñar/ + alls Christendom sins/ Sem er/ Jdranarennar/ Truareñar/ Þolennædennar/ Huggunarennar/ Vonarennar. Hnóriar Gæfur Heilagur Ande med oss eykur + auaxtar þegar vier jafn lega akóllum Gud. Þar þuert a mote/ þegar Bæna akallenu verdur gleymt/ þa rena þessar Gæfur/ og sma minka/ allt þangad til Nadr misser þær med óllu.
9 Huar hellst sem ecke er Bæna akall ed til Guds/ þar eru allar Dyr/ edur Vindaugu open fyrer Dióflenum og óllum hñs Freistingum/ Sem sia ma a Dæme Judasar. Matth. 26. Luc. 22.

## Er Bænen Heilagre og betre j einū stad enn ødrum/ Edur a einnm Tijma helldur enn ódrum?

J Nyia Testamentenu er Bænen ecke buñden vid nóckurn Stad sierlegā/ so sim Christ=

Christur berlega seiger Johañ. 4. Su stund kiemur/ ad huórke a þessu Fialle/ nie j Jerusalem munu þier tilbidia Föduren. Og S. Pall seiger/ 1. Timo. 2. Ad Menn kunne allstadar ad gióra sijnar Bæner/ Lÿfta eirnen ma huór Madur bidia j Suefnhwse sijnu/ Matth. 6. Gack j Suefnhws þitt/ og ad lycktum Dyrum bid Födur þinn/ sem j leinum er. J Sæng siñe/Psalm. 63. Nær eg legg mig til Sængur þa minnest eg a þig/ Nær ad eg vakna/ þa tala eg vm þig. Og med þui ad vier eigum alla tijma ad bidia/ Luc. 18. Þa eru aller Tijmar jafn Heilager til Bænarennar. Enn þeg ar Menn vt af christelegu Frelse/ vegna sidsemdar og godrar skickanar/ tilsetia eirn stad edur añan/ fyrer vtan Hræsne/ til ad gióra þar sijnar Bæner/ þa er þad ecke Auijtunar vert. Item þegar N lad ur tekur til eirn Stad edur annan einsiegan/ þar hann meige ohindradur gióra Bæn sijna. So og þegar Menn koma saman j almennelegum Kyrkiu söfnudũ/ og gióra þar Bæner/ sem Guds Ord er predikad/ og Heilög Sacramenta eru rÿdkud/ þa skiedur þad epter Dæmum

postulegrar Kirkiu. Act. 2. 1. Cor. 14. Enn huar hellst Bænen er giörd j þa Meining/so sem være hun Heilagre og kroptugre j einum stad enn ödrum/þad sama er røng og skadsøm Vantru.

## Huør er Greinarmunur a millе eirnrar christelegrar Bænar/og þeirra Bæna sem heidner Menn Tyrkiar og Papistar giöra?

Chytreus.

1 Rietter og sanner Tilbidiendur/ þr tilbidia og akalla þann eina og sanna Gud/ sem er Fader vors Drottens Jesu Christi/ sa ed sig hefr j sijnum Syne openberad. Eñ Heidingiar þeir akalla ecke þennan eina og sanna Gud/ Helldur dickta þeir sier adra Afgude edur Skurgod/sem er Jupiter/Mars/Pallas(Por Oden)Tyrkiar akalla þañ Gud sem skapad hefur Himen og Jörd/Enn af þui/ þeir lasta Guds Son og þann Heilaga Anda/þar fyrer þa akalla þeir ecke þañ sanna Gud. Þuiad eingen er Gud/nema þann sem er Fader Drottins vors Jesu

Christi. Papistar þeir akalla og tilbidi-
ta framlidna heilaga Menn / Mariam /
Petrum / og adra fleire / þar med ✝ eirn-
en þra Likneskiur ✝ Bilæte / huert a mote
þessare eilijfre ovmbreytanlegre Reglu /

Þu skallt akalla Drottenn Gud
þinn / og þiona hønum alleina.

2. Ein riett christen Bæn hun skiedur
fyrer Guds Ord / og vt af Guds skipan
og bifalningu / og vppa Guds Fyretheit
✝ hans Lofan / Þuiad riett christen Ma-
dur / hann veit huórn hann akallar / og
huórnen hann eige ad bidia / og truer þ
hann verde vissulega bænheyrdur. Enn
Heidingiar ✝ Papistar huarfla hingad ✝
þangad j þeirra Hugreiningum / akalla
ecke ad eins Gud / helldur ✝ eirnen dauda
framlidna Menn og þeirra Myndir / og
eru þar fyrer ovijser huórt þeirra Bæner
verde heyrdar eda ecke / Þuiad þeir hafa
j Guds Orde huórke Bifalning nie Fy-
rerheit / og ecke neitt Epterdæme / til
slijks Bæna akalls.

3 J riett christens Mans Bæna akall:
til Guds þa er Kynning Guds hin riet-
ta /

ta/ og sónn TRV/ so sem Lios og log-
ande Lampe/ so vier vitum fullkomlega
og truum þui/ ad Gud mune Bænheyra
oss vegna Medalgangarans Jesu Chris-
ti/ epter þui Fyrerheite + þeirre Lofan
sem osser j Euangelio tilsógd og open-
berud Jacob. 1. Sa ed bidur/ bidie hn̄
j TRVNNE og efest ecke/ Joha. 16.
Huad hellst þier bidied Fódurenn j mijnu
Nafne/ þ mun hann veita ydur.

Enn Heidingiar/ med þui þeir vita
ecke par af Guds Syne/ og forsmæ E-
uangelium / So og aller adrer þeir ed a-
kalla og tilbidia Heilaga/ edur óññur Bi
læte/ og ecke forlæta sig vppa Guds
Fyrerheit og Meinadar Mannen Jesum
Christum / þeir kunna ecke med nóckru
mote ad hafa soddan TRV/ huór þo ad
er so sem SAL og LJF einnrar christ-
elegrar og gudlegrar Bænar.

4 J siöasta mæta/ Sa Riettchrist-
ne bidur ecke alleinasta vm stundlega lij-
kamlega gooda Hlute/ og Frelsan wr
lijkamlegum Motgange og Hórmungū/
Helldur mykłu framar vm Syndanna
fyrergiefning/ og Heilagan Anda/ Ad

Gud hann vilie vardueita oss j sanne TRV / og goodu og gudlegu Framferde / Ad hann vilie giefa eilijft Riettlæte Lijf og Saluhialp / Ad hann vilie vardueita j hia oss þann hreina ꝛc saña Lærdom / vernda christelega Kirkiu fyrer Diöflenum / ꝛc. Vm soddan Velgiörninga bidia ecke Heidingiar Tyrkiar nie Papistar / og ecke adrer athugalauser Menn j Christnenne.

Og er nu þesse hin fyrsta Höfudgrein vm christelega TRV og Religionem, og sanna kynning Guds / og vm Bæna akalled til þess eilijfa almattuga Guds. Enn af þui ad miög er naudsynlegt ad þeir olærdu og einfölldu / vite sannar Greiner vm Bæna akall til Heilagra / huar fyrer Menn eiga þa ecke til ad bidia / þa setium vier þad hier hia þessare fyrstu Höfudgreinenne.

## Vm Bæna akalled til Heilagra.

Chemnicius.

**Meiga Meñ ecke akalla Heilaga Menn framlidna?**

J öngvañ

I öngvan mæta/ Þvíað þ er Synd j móte þinn fyrsta Bodorde/ að akalla eda tilbidia aňað eň Gud alleina/ Mat. 4. Drotten Gud þinn skalltu tilbidia + hönum einum þiona. Nu er Bæn + Akall eitt og hid sama/ og þad hvörtveggia eigum vier Guds Nafne ad veita j öllū Naudsynium/ Psalm. 50. Akalla mig a þīnū motgangs Tijma + ct. Eň Gud hann giefur önguum siña Dyrd/ nema þeim sem er Gud/ Esa. 46: Eg er Gud enn eingen annar/ sa Gud hvörs lij ke hvörge er/ + ct. Og Herran Christur hann hefur so sett og dicktad þa Drott-enlegu Bæn/ ad vier skulum hann tilbid-ia og akalla/ hvör ad er + heiter VOR FADER A HIMNVM og hvörs ad er RIKED / MATTVREN og DY-RDEN AD EILIFV.

## Nu erum vier aumer/ armer

Syndarar/ og ecke verdugier ad Gud bænheyre oss/ þar fyrer er þörf ad vier höfum Medalgangara einhvörn/ og slijk Med-kienning eigenlegs Overdugleika kann Gude ecke ad mislijka?

Þetta er allt satt/ Og af soddan lijkingum / og vppdicktan manulegrar Skynseme eru allar Afgudadyrkaner hia heidnum Mönnum komnar vpp/ so sem Ambrosius skrifar yfer 1. Cap. Til Romuerja. Enn Heilög Ritning/ hun fram̄ setur fyrer oss eirn obrigdanlegan og vissan Veg/ so vier skulum ecke fara villt/ sem er þesse/ Ad med þui vier erum aumer og overduger/ og þurfum ad hafa ærnadar Menn og Medalgangara/ þa eigum vier ecke ad vtuelia oss þa sialfer/ Þuiad ef vier hefum neckurn fyrer Medalgangara/ þa er naudsyn ad vita/ ad hans Medalganga mijsse Guds og Vor bregdest oss ecke. Þar fyrer syner oss Heilög Ritning og kienner/ ad af sialfum Gude a Himnum vpper Jesus Christus þar til settur og skickadur/ ad vera ærnadar Madur og Medalgangare a mille Guds og vor Manna/ so sem skrifad er/ 1. Timot. 2. Eirn er Gud/ og eirn er Medalgangare Guds og Manna/ Madurenn Jesus Christus. Og hann er ecke ad eins vor Medalgangare

til ad endurleysa oss / helldur og eirnen vor ærnadar Madur hia Födurnum 1. Joh. 2. Ef nöckur syndgar / þa höfum vier ærnadar Mann hia Födurnum 2 ct. og Bidur fyrer oss / Rom. 8. Hann augslyses fyrer Guds Auglite fyrer oss / Heb. 9. Hann Bidur fyrer oss / so ad vier fyrer hann komunst til Guds Heb. 7. Þuiad fyrer Christum höfum vier diörfung og liduga gang til Guds / med fullu Traust / Eph. 3. Þar fyrer hefur hann skipad oss ad Bidia j sijnu Nafne. Og med þui hans Forþienasta og Fyrerbon er Gude þægeleg / og þar med nogu sterk + kröptug / þa höfum vier ad auk þessarar Skipanar eitt ofallvallt og obrigdanlegt Fyrerheit / ad vier skulum Bænheyrder verda Joh. 15. og 16. Þuiad hann kann eilijflega ad hialpa þeim sem fyrer hañ koma til Guds / Heb. 7.

Vt af öllu þessu / þa ma huörs christens Mans Hiarta med sialfu sier hugleida / huörsu hrædeleg Villa + Andstygd þad er fyrer Gude / ad vtuelia sier Heilagra Manna Forþienustu edur Fyrerboner j staden Christs / ellegar jafn-

 framt

framt hönum.

Joh. 14. Huörs þier bidied Födurenn j mÿnu Nafne/þad vil eg giöra. Joh. 15. Ei- ge vtuöldu þier mig / helldur vtualde eg ydur og eg skickade ydur til ad þier geingud og bær- dud Auöxt/til þess/ad huörs þier bidied Föd- uren j mÿnu Nafne/þad giefe hañ ydur. Joh. 16. Sannlega sannlega seige eg ydur/ huörs þier bidied Fódurcn j mÿnu Nafne.

## Christi Magt og hans dyrdar Vellde er haleitara og hærra/eñ ad vier Aumer meigum hans Medalgöngu og Fyrerbonar niotande verda/Enn þeir Heilögu sem vaþest haþa j lyka Eymdum so sem vier þeim ganga helldr til Hiarta vorar Eym- der/ og Naudsyniar?

Soddan Þancka og Huxaner eyde- leggur Heilög Ritning lioslega/ Þuiad so stendur skrifad/ Hebre. 2. + 5. Cap. Nann ætte øllum sÿnum Brædrum lÿ- kur ad verda/vppa þad ad hann Mysk- unsamur yrde/og trulyndur Biskup/ fy- rer Gude/til ad forlÿka Folksins Syn- der. Þuiad med þui hann heþur lided/z er frei-

er þreiſtadur/ þa kann hann þeim ad hialpa ſem þreiſtader verda. Þuiad vier høfum ecke þann Biſkup/ ſem ecke kan̄ ad ſampijnaſt vorum Breyſkleika/ helldur ſa ſem þreiſtadur er a allan hątt/ lijka ſo ſem vier/ þo an Synda. Þar fyrer lątum oſſ fram̄ ganga/ med fullu Trauſte fyrer hans Nadarſtol/ ſo vier ødlunſt Myſkun/ og finnum Nąd a þm̄ Tijma/ þegar vier þurfum Fulltijngis vid. Nu vppa þad ad vier ecke ſkulum þurfa ad hrądaſt hans Tijgnar vellde/ þa kallar hann ſialfur vpp/ og bydur til ſijn øllum Aumum z Overdugum/ ſeigande/ Komed til mijn aller þier ſem erfided og erud þunga þiader/ Matth. xj. Item huør hann kiemur til mijn/ þann ſkal eg ecke vtreka/ Johan̄. vj. Og ad vijſu þa hann var komen j Rijke ſitt/ minnteſt hann a þann auma Rąningia. Þan̄en þa høfum vier nu Bod og Skip an Guds/ þar med hans Fyrerheit/. ad Bidia alleina j Christi Nafne/ Joh. 16.

 Sann-

Sannlega sannlega seige eg ydur / Huørs
þier Biðied Födurenn j mijnu Nafne / + ct.
Eñ vm Bæn og Akall til Heilagra / þa
er huørge j Heilagre Ritningu Bifalning
nie nöckurt Fyrerheit·

# Nu er pullkomlega trulegt / ad Guds Heilager / mune vnna oss og oska alls Goods hier a Jördunñe / lijka sem Einglar Guds giöra / Huar pyrer skulum vier þa ecke tilbidia þa?

Vissulega er truanlegt / ad þeir Hei-
lögu sem eru hia Gude / so og lijka þeir
goodu Guds Einglar mune oska alls
goods Christne Guds / sem eñ nu velkest
j þessum Eymdardal / og hier til meiga
leidast nöckrar Greiner Heilagrar Ritnin
gar / Eñ vegna þessa þa fylger þad ecke /
epter / ad vier skulum Heilaga tilBidia +
akalla j vorum Naudsyniu / Þuiad vier
höfum önga Bifalning þar til / + eckert
Fyrerheit. Og Heilög Ritning seiger Ber
lega / ad þar fyrer eigum vier Gud allei-
na ad akalla / eñ ecke Heilaga / þeir sem
framlidner eru / Þuiad þr vita ecke nöck-
urn hlut af oss / edur vorum aliggiande
Naudsynium

Naudsyniun / Esa. 64. Drottē/ þu ert ad vӱſu Fader vor/ Þui Abraham veit ecke af oſs/ Iſrael þecker oſs ecke/ Eñ þu Drotten ert vor Fader og Frelſare. Þar med þa kunna Heilager ecke ad ſia vorar Hugreñingar/ heyra vorar Anduarpaner/ eda ranſaka vor Hiortu/ Þuiad þad ſama kann eingen ad giora nema Gud alleina / og Madurē Jeſus Chriſtus: Jerem. 17. Eg Drotten kañ Hiartad ad ranſaka / og Nyrun ad profa. Rom. 8. Hañ ſem Hiortun ranſakar veit huoria Meining Anden hefur. Apoc. 11 Allar Samkundur ſkulu vidurkieña ad eg em Nyrnaña + Hiartaña Ranſakare.

## Skal Gud ecke kunna ad openbera þeim Heilogu a Himnum vorar Bæner / Eymder og Anduarpaner? Og huor veit / nema Gud hann late Heilaga hialpa oſſ. Lyka ſem Einglarner eru oſſ til þionuſtu ſkickader Hebre. 1.

Bænen og Akalled a ecke byggdt nie grunduallad ad vera vppa fallualltar Ætlaner mannlegra Hugrenninga / helldur a Bænen ad hafa fyrer ſier auglioſa

Guds

Guds Bifalning / og sannarlegt Fyrer-
heit / j Guds Orde oss framsett / Þuiad
Bænen verdur ad skie af TRVNNE.
Jacob. 1. Hann bidie af TRV / og efest
ecke. Enn soddan Huxaner og Meiningar
ar vm Guds Heilaga annars Heims / eru
ovissar og fallualltar / af Mannlegre
Skynseme vpphuxadar / hafa eckert Gu-
ds Ord fyrer sier / ønguø Bifalning / ecke
neitt Fyrerheit / Helldur er þad berlega
þuert j mote Guds Orde / Esai. 64:
Þu Drotten ert vor Fader / ꝛc. Acto:
15. Gude eru kunnug øll sijn Verk j fra
Veralldar Vpphafe / og hann er sa sem
Hiørtun þecker. Og þo ad eins være
hættad vm Guds Heilaga / so sem vm
Einglana / þa eigum vier þo ecke ad heil
dur þa ad tilbidia nie akalla. Þuiad þa
Heilager Einglar hafa stundum bodad
Mønnum Guds Vilia / og kūngiørt þm
ad þeir være bænheyrder / So sem þar
stendur Dani. 9. 10. Luc. 1: Act. 10.
Þa hafa þeir þo ecke viliad læta tilbid-
ia sig Apoc. 19. Sia til þu giører þad
ecke / Tilbid þu Gud / ꝛ 22. Og eg fiell
fram̄ fyrer Fætur Eingelsins / ad tilbid-
ia /

ia / Og hann sagde til mijn / Sia til ad
þu giörer þad eige / tilbid þu Gud.

## Nu lesum vier / ad Israels Syner hafa so beded / Drottenn minstu þinna þienara / Abrahams / Isaachs / ✝ Jacobs / ✝ ct.

Med þessum Ordum hafa Israels Syner mint Gud a hans Myskunar Fyrerheit / huör ed hann hafde giefed Forfedrunum / vm þad Blessada Fyrerheitsna Sæde Christum / og vm þad ad Gud hafde lofad ad þeir skylldu vera Folk hans og Arfleifd / og vppa soddan Fyrerheit hafa þeir grunduallad þeirra Bæner. Enn huörge stendur þad / ad þr hafe þa framlidnu Forfedr akallad / ad Gud villde fyrer þeirra Forþienan og Medal göngu þa Bænheyra. Helldur hlioda þr ra Ord hier huert a mote. Esa. 64. Þar minnast þeir Forfedranna / Ei ecke tilbidia þeir þa / helldur Gud alleina.

Ei þar so stendur skrifad Gen. 48. Inuocetur Nomen meum, & Patrum meorum super Pueros istos / Þad er þr rar

rar Meiningar / ad Jacob bidur j sinne Testamentis giörd / ad Syner Josephs skule reiknast fyrer sijna Sonu / Og slijk Utlegging verdur beuijsud / Esaie. 4. Og hia Jeremia stendur so / 15. Cap. Enn þo ad Moyses og Samuel stæde pramme fyrer mier/ þa heþ eg þo øngua Giedþeckne til Folks þessa. Þesse Ord stadfesta ecke Medalgóngu nie Akall til Heilagra Framlidenna / Helldur er þetta Meining Guds Orda/ Enn þo ad nöckrer være sem so kynne ad bidia fyrer þm sem Moyses og Samuel / þa vil eg þo ecke hlijfa þessum órgum Skalkum (seiger Gud) Þesse utlegging er ecke af oss uppdicktud / helldur stendur hun lioslega Ezechi. 14. Cap.

## Meiga þa Menn ecke heidra Guds Heilaga?

Menn meiga ad sönu heidran ad veita Guds Utuöldum Framlidnum/ enn þo med þeim hætte sem Gud vill þa heidrada hafa / og so sem þeir sialfer hafa viliad vera Heidrader. So sem Maria

seiger

seiger/ Mig munu allar Ættkuijsler sæla kalla/ Ecke af þui ad eg kunne ad giöra mykla Hlute/ eda ad mitt Nafn sie Heilagt/ Helldur af þui ad Drottenn hann hefur veitt mier mykla Hlute/ og af þui ad hans Nafn er Heilagt alleina.

Nu er sa sanne Heidur sem vier veita eigum Heilögum/ falen i þremur Greinum/ Sem er/ Vier eigum fyrst og fremst ad prijsa Gud/ og giöra hönum þacker fyrer þær storar Gafur sem hann hefur veitt þeim/ og þad hann hefur tied oss Epterdæme sinnar Myskunar a þeim. Af soddan Guds Gafum eigum vier miked ad hallda/ og prijsa Guds Heilaga fyrer þad/ ad þeir hafa so trulega fared med Guds Gafur/ so sem Christur lofar þañ trulynda Þion Math. 25 Þu goode Þion og Trulynde/ þad þu varst Trur yfer litlu/ etc.

J annan mata þa skulum vier taka oss Huggun og styrkia vora TRU og Von med þeirra Lærdome og Jatningu/ Þra Krosse og Morgange/ og þeirra Þolenmæde/ so sem þa vier hugleidum huörnen ad S. Petur var til Nadar teken ep-

ter þrefallda Afneitan / þa ſtyrkeſt þar af vor TRV/ad Naden yfergnæfi Syn-dena / Rom: 15. Cap.

J þridia mata / þa heidrum vier Hælaga / Þegar vier epterfylgium þm j Truñe og ödrum Gudlegum Dygdum og Mañkoſtum. Þad er ſa ſañe Heidur ſm vier kuñum Heilögum Mönnum ad veita / Þuiad þa Dyrd ⁊ Lotning ſem Gude alleina til heyrer / ſem er Bæn og Aakall / eigum vier huörke ad veita Guds Heilögum Einglum nie Aaſtuinum. Og ad vijſu / þa girnaſt Guds Heilager þad ecke: Actor. 14. Þui giöre þier þetta / vid erum daudleger Menn lijka ſem þier og Biodum ydur ad ſnuaſt fra þeſſum Hiegoma / til lifanda Guds. Jtm. Act. 10. Stattu vpp / Eg em ⁊ Madr / ⁊ct.



# Aunnur Høfudgrein

## Su ønnur Høfudgrein Christelegs Lærdoms hlyder uppa Skapan allra Skiepna/ einkum Einglana og Mannanna/ sem skapader eru epter Guds Mynd.

Vd Almættugur hann hefur þennan fagra og prydelega Himen og Jørdena/ og allar Skiepnur þar inne/ hellst þar fyrer skapad/ og med dasamlegre Visku og Nagleik furdanlega prydt/ ad þ skyllde vera so sem eitt MUSTERE/ þar inne ad Gud Skaparenn/ og hans eilijf guddomleg Speke/ Giæska og Almætte skyllde af Einglum og Mønnum kunnugt og openbert verda/ og dyrlega vegsamad ad eilijfu.

Þar fyrer þa er oss Mønnonum skyll

dugt so ad alijta z hugleida allar Skiep
nur a Himne og a Jordn/ ad vier lætū
þær vera oss auglioſan z openberan san-
nan Vitnisburd/og so sem eina Predi-
kun/ vm GVD SKAPARAN/ ad
hann sie Almættugur/Vijs/Giæskurij-
kur/Goodgiarn/ Kiettlætur Gud/ sa ed
oss Mennena heþur skapad/og allar ad
rar Skiepnur/oss til goda. Hann vard-
ueiter og vid Magt helldur þessum prij-
delega vijda Himne/med øllum skijnan-
de Stiørnum/so og Solunne/pyrer hu-
øria hann gieþur Lios og Lijþ øllum
Skiepnum/og skickan Tijmanna velld-
ur/og sundur greiner Daga og Nætur/
Vetur og Sumar. Tungled lætur hñ
taka sitt Skin aþ Solunne/huørn Ma
nud/med jøþnum Mæta/og missa þad
aptur. Hann varduetter Lopt z Vind/
Huar aþ øll Dyr a Jørdunne z Menn
haþa þeirra Andardrætt og Lijþ.
Hann lætur vid Magt halldast Elld og

Vatn

Vatn/ af hvórium Skiepnum vier alla Daga hófum marga og mykla Gagnsemd. Hann vidhelldur Jórdunne med óllum hennar Grooda/ hvar af vier Hófum vora Lijfs Næring/ og óllu þui sem af henne vex/ sem er allra Handa Trie og Jurter/ Blomstur og Auexter/ Gimsteinar/ Gull og Silfur/ Þar er mijkell fiólde adskilianlegra skynlausra Dyra/ Fugla og Fiska/ og annara Skriódkuikenda/ hvóriar ad optsinnis nær allar nidur deyia a stuttum Tijma/ og verda ad Molldu aptur/ þa vardueitest þo hvór ein Tegund ꝛ vid Magt blijfur. Og einkanlega fierdeiles er þad furdanda/ ad Jórden med Siónum hanger laus og lidug j midium Heimenum/ eins og ef eitt fiall heinge mitt j Loptenu obifanlegt og fielle ecke nidur.

Enn þad hellsta og haleitasta Guds Verk a medal allra synelegra Skiepna þa er MADVREN huør ed skapadur er aþ sierlegu Guds Rꝍde ꝛ Fyrerhyggiu/ ecke alleinasta med Lijkama ꝛ óllum Lidum og Limum/ so sierhuør Limur

mur hefur eigenlegt Embætte og ſierle ga Þionuſtu/ helldur og ſo lijka er hann ſkapadz mz ſkynſamre odaudlegre Sæl huør ed prydd er med þui ſkilnings Lioſe ad hun hefur Mannuit og Forſtand/ z kann ad greina Jllt fra Goodu/ Synd er fra Dygdum z Mannkoſtum/ Quad allt fullt Vitne ber/ ecke alleinaſta þar vm/ ad eirn ſie Gud/ helldur og eirnen huór og huilijkur hann er/ ſem er/ Ad hann ſie Vijs/ Godur/ Riettlætur/ elſkande Dygder og Mannkoſtu/ enn hatande Synder og Glæpe alla. Geneſ. 1. Lætum oſſ giöra Mannen epter Vorre Lynd og Lijking vorre. Rom. 1. Gud hefur Mónnonum openberad ſijna Kynning/ med þui/ ad Guds oſyneleg VERA/ þ er/ Hans eilijfur Almættur z Guddomur verdur ſiedur a þeim Verkum ſem hñ ſkapad hefur j Heimenum.

Nu þo ad ſlijk Kynning Guds ſem kiemur af ſkodan Skiepnañа ſem Gud hefur openberad/ ſie þad fegurſta Lios ſem enn nu er epter orded j Syndum

ſpilltre

spillstre Mannsins Nattúru/ Pa pullnæ ger þad þo ecke. Þuiad þ er Guds Vilie/ad Menn skule þeckia hann og heid ra so sem hann heþur sig j sijnu Orde þyrer sinn Son vorn Lausnara Jesum Christum openberad.

Og j þessare Höfudgrein vm Sköpunena er þetta fyrst hugleidanda/ Ad sa eine Eilijþe Almætuge Gud/ Fader/Sonur og Heilagur Ande/ haþe aþ ønguu Eþne skapad Himen ⁊ Jørd Lopt og Laud/ Menn og Eingla/ og alla adra Hlute synelega og osynelega/ epter þui sem ad liosleg a skriþad stendur j þyrsta Capitula þeirrar þyrstu Bokar Moysis. Og Joh. 1. Stendur so skrifad vm Guds Son/ Aller Hluter eru fyrer hann skapader/ og án hans er ecke ert skapad þad sem skapad er. Job. 33. Ande Drottins hefur skapad mig. Psa. 33. Fyrer Ord Drottens er Himenenn skapadur/ og fyrer Anda hans allur hers þeirra HERR.

Þar næst j annan mata pa er þad

hugleidanda/ad Gud hann hefur j vpp
hafe ecke alleinasta skápad alla Hlute/
helldur og eirnen þa helldur hann vid
Magt a þessum Deige og alla Tijma
øllum Hlutum sem til eru/og Lijf hafa
nærer þa og lijfgar epter sijnum Vilia/
og er fullkomlega nalægur øllum Hlu-
tum/og j øllum Stødum/enn er þo ecke
bűden vid nockra Skiepnu/ Og hñ sier
og dæmer allra Manna Hugrenningar/
Ord + Giórder: Act. 17. Stendur so/
Gud hann giefur óllum Lijf og Andar-
drætt a allan hætt. Psalm. 147. Hñ
giefur Regn a Jórdena/ og lætur vaxa
Gras a Fióllonum. Hann giefur Fien-
adennm sitt Foodur/og Vngum Hraf-
nanna sem hann akalla. Psalm. 139.
Huórt eg sit eda stend/ þa veistu þad/
Huórt eg geing eda ligg/ þa ertu j kring
vm mig/+ sier alla mijna Vegu/ Þu for
merker mijnar Hugrenningar a leingdar.
Psalm. 7. Drotten er Domare yfer Fol
kenu/ Þu Riettlætur Gud ransakar Hió
rtun og Nyrun. Mitt Fulltijng er hia
Gude/ sa ed hialpar Riettferdugum af
Hiar-

Hiarta. Gud er eirn Riettlaatur Domare og eirn Gud huór ed Daglega hootar.

J þridia mata þa skulum vier so skoda + hugleida allar Skiepnur a Himne og a Jórdu/ ad þar sie oss syneleigur Vitnisburdur vm Gud Eilijfan/ Vijsdom hans/ Giæsku og Almætte/ so sem fyrst j Vpphafe þessarar Hófudgreinar var lijted vm rædt/ og so sem vier siaū/ ad Psalmarner og Spamanna Bækurnar/ alluijda so miög Dyrdarsamlega tala vm Guds Guddomleg Verk/ og þ hann hefur skapad j óllum Heimenum/ + prijsa þar med Guds Almætte/og hans haleita Giæsku. Psalm. 19. Himnarner vtskyra Guds Dyrd/ + Festingen Himnanna kunngiórer Verken hans Handa. Item. Psalm. 104. 135. 147. 148. Esai. 40. Stendur so/ Huór hefur sod dan Hlute skapad? og vtleider þeirra HERR med Tólu/ hann sa sem þa alla nefner med Nafne/ hans Mattur og óflugur Kraptur er so mijkell/ so þar kañ ecke j einu brestur a ad verda. Itiñ. 41. 42. Cap. + ct. Job. 38. 39. Cap.

Enn fierdeilis og einkum þa skulum

vier hugleida þær Skiepnur sem Gud hefur skapad med Vite og Skynseme/ epter sinne eigen Mynd/ sem eru MENN og EINGLAR / til þess/ ad þeir skylldu þeckia hann og heidra. Og ad Gud þar a mote giefe þeim sijna Speke og Giæsku og sialfan sig.

# Um Einglana.

Þeir heiløgu Einglar eru Andlegar Skiepnur af Gude skapadar epter hans eigen Mynd/ og med Vite og Skynsemd/ Riettlæte/ Sanleika og fullum frialsum Vilia begæfader/ hvörier ecke eru vid nöckra adra Holldlega Veru Personulega samteingder / so sem Mañsins Sæl er/ þeir eru odaudleger/ Og af Gude setter og skickader til þess ad lofa og dyrka hann ad Eilijfu/ og ad veita Þienustu christelegre Kirkiu hier a Jördunne/ og ad vernda og vardveita þa Riettruudu.

Ebre. 1. Einglarner eru aller bio⸗
nustusamer Andar / vtsender til Pionustu
vegna þeirra sem erfa skulu eilijfa Sa⸗
luhialp. Psalm. 34. Eingell Drottens
mun setia Herbwder sijnar j kring vm þa
sem Gud ottast / og frelsa þa.

## Huad eru Dioflarner.

Dioflarner og þeir jllu Einglar eru
og eirnen Andlegar Skiepnur / j Vpphaf⸗
fe skapadar epter Guds Mynd / huörier
vt af Drambseme og eigenlegum Met⸗
nade / oneydder / fiellu fra Gude / og eru
þar fyrer af Gude vtskwfader + rekner /
+ eru nu j Loptenu + a Jördunne / sueim⸗
ende j kring vm oss Mennena / og vt af
grimdar Hatre til Guds og Mannskiep
nunnar / eru þeir vtausande Lygnum og
Gudlöstonum / Vantrunade og Villum j
bland Mannana / Peirra Astundan er ad
fordiarfa Lönd og Lyde og allar Valld
stietter / og ad koma Mönnum til Synda
og Slæpa / og til allra Olucku / ef ad
gooder Guds Einglar veittu þeim ecke
Motstödu. Slijkt grimlegt Valld lætur
Gud Diöfulen hafa / og lijdur þad epter

er sijnu Dasamlegu Rade/ Enn fiendum hindrar hañ þad. Og þetta geingur so til/allt til hins sijdasta Doms/ a huörsum öllum Dióflum og ohreinum Aundum: mun fleygt og kastad verda j eilijfa Ellds pijnu.

## Beuijsingar Heilagrar Ritningar/ huadan þyrerþarande Skyring er teken.

Johannes viij. Capitula. Dioþullen er eirn Mordinge þra Vpphaþe/ (Sa fyrste Mordinge sem ad sueik vora fyrstu Forelldra/ og þa vppa Sœlena myrt hefur) og hann stod ecke a Sannleiknum(a þui Riettlœte + þeim Heilag leika j huörin hann var ad öndverdu skapadur) Þegar hann talar Lygena/ þa mœler hann af sialfs sijns/ Þuiad hann er eirn Lygare/ + Lygenar Fader.

Ephes. 2: Þa þier vorud dauder fyrer Yfertrodslur + Synder/ j huörium þier hafed geinged/epter hætte þessarar Verálldar/ og epter Höfdingia þeim sem j Loptenu drottnar/ sem er epter

Þui

þeim Anda sem a þessum Tijma befur sijna Verkan j Börnum Vantruarenar.

Ephes. 6. Vier hófum ecke vid Holld og Blod ad Beriast / Helldur vid Herra þessarar Veralldar / þeir sem j Myrkrum Heimsins drottna / vid þa jllsku Anda vnder Himnenum / ⁊ ct. Allt til Enda Capitulan: 1: Pet. 5. Ydar Motstandare Diófullen geinge vm kring sem eitt greniande Leon / og leitar epter þeim hann kunne ad suelgia / huórium þier skulud veita motstódu stódugier j TRVENNE.

Matth. 25. Fared Burt fra mier þier Bólvader j eilijfan Elld / huór ad fyrerBwen er Dióflenum ⁊ hans Einglū.

## Huad er Madurenn.

Mennerner eru skynsemdar Skiepnur / hafande Sal og Lijkama / og eru skapadar af Gude epter hans eigen Mynd ⁊ Lijking / til þess ad þeckia Gud lofa hann og vegsama / og prijsa / ⁊ vm hann Vitne ad bera. Gene. j. Gud

skap-

Sköpunen allra
skapade Mannen epter sinne Mynd / Ep-
ter Guds Mynd skapade hann hann.

## Hvad er Salen.

Salen Mansins er ein andleg lif-
ande Substantia, og Vera/ skøpud af
Gude epter hans eigen Mynd/ Pad er/
Hafande Vit og Skynseme/Sannord/
Riettuiis/hafande friian frialsan Vil
ia/huør ed samteingd er Manlegum Lii-
kama/ til ad vera ein Persona. Enn ep-
ter Fall Adams og Evu/er þesse Mynd
Guds i Mannsins Salu fyrer vppruna
Syndena formyrkuud og fordiórfud/
So ad Skilninguren er fullur Blindleika
og Efasemdar vm Gud/ Þar med eru i
Vilianum og i Hiartanu vtslóckrar all-
ar Dygder/og aller gooder Mannkoster
til Guds/ Huar fyrer og ad Salen er af
Gude dæmd til eilijfrar Pijnu og Kua-
la/ɀ kañ ecke af sijnum Krøptum sial-
fs ad leysa nie frelsa sig þar i fra apt-
ur/ Helldur verdur hun alleinasta fyrer
Gudz

Guds Son og þann Helga Anda leyst og frelsud fra Syndenne og Daudanum/og ad nyiu forlijkt vid Gud

## Hvad er Guds Mynd epter huorre Maduren er skapadur?

Guds Mynd epter huórre Madurenn var skapadur j fyrstunne/er þesse/ Ad Manneskian hun var Lijk Gude/ Skaparanum j Skilningenum/Vilianum/Hiartanu/z øllū ødrum Kraptū. Þuiad lijka so sem Gud sialfur er ein lifande Substantia/ VERA/ Vijs/ Giæskurijk/Riettlæt/sannarleg/ hrein/ hafande frijan frialsan Vilia/ hatande og straffande allt Ranglæte/allan Saurugleik/ alla Vanskickan / sem er edur vera kann j mote hans Vilia og Guddomlegum eigen Dygdum og Mannkostum/ So hefur hann og eirnen yfer mannlega Naturu sem vera ætte hans Mynd og Lijking þessum sijnum haleitóstu Gæfum vthellt/ sem er/Lijf/ Vijska/ Riettlæte/Giæska/Sannindi/Hreinleike/ og

sodda

soddan Dygder fleire/ Og j Mannsins Skilning og Skynseme heßur Gud gießed eitt haleitt skiært Lios/ Speke og Visku/ huar aß Manneskian kunne ad þeckia Gud og allar Skiepnur j þeirra Natturu/og giøra Grein a mille Dygda og Odygda/haßande øngua Eßasemd a Guds Orde/og hans Fyrerheitum edur Notønum. J Mannsins Niar ta og Vilia var jnngroed og plantad saññarlegt Riettlæte z ßullkomleg Hlydne/vid Gud og hans Vilia/ßyrer vtan alla Synd og Tilhneigingar til hins Vonda/ Þar med brennande Elska z ast til Guds/ßullkomen Føgnudr j Gude/ßyrer vtā alla Hrygd/Sott z Dauda Þaññen voru nu allar Dyggder/aller Mañ kostet/øll Hlydne vid Guds Lógmal hrein og algiórd med Mannenum j Vpphafe/fyrer Falled/ og til þessa eins so sett og skickad/ ad Madurenn skyllde þeckia Gud/lofa hñ z dyrka eilijflega.

Þesse Skyring Guds Myndar og
Lijk

Lykingar med Mannenum er teken af þessum Greinum.

Genesis 1. Cap. Latum oss skapa Mannen epter Mynd og Lyking vorre: Coloss. 3. Iklæded ydr þeim nyia Mañ enum / sa sem endurnyast til Vidurkienn ingar / epter þess Mynd sem hann hefur skapad.

Ephe. 4. Iklæded ydur þeim nyia Manne / sem epter Gude er skapadur j sannarlegu Riettlæte og Heilagleika.

2. Corinth. 3. Vier verdum j samre Mynd uppbirter / fra eirne Birte til añ arar / af Anda Drottins.

Þessar Greiner minna oss a Endurnyung Guds Myndar / huör ed j oss fyrer Syndena sarlega er kreinkt + formyrkuud / og er so nær sem utslökt og orden ad Mynd og Tötrum Diöfulsins. Eñ ut af skiærre ofeiganlegre Myskun Guds Sonar verdur hun fyrer Heilagan Anda endurnyud aptur / huör ed burt fæger Syndena af oss / og umuendar og snyr vorum Sálum og Hiörtum aptur til Guds / so ad vier tökum til ad þeckia Gud riettelega og elska hann / trua og treys-

